# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLIII. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Július (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1961

## A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, fyrrv. landstjóri Kanada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Right Honourable George P. Vanier, landstjóri Kanada.

## B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, landkönnuður, Hanover, New Hampshire
Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Prófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, sendiherra, Bonn, Þýzkaland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árni Helgason, raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, prófessor, Baltimore, Md.
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Man.
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Man.
Mrs. Kristín Thorsteinsson, Gimli, Man.

**C. Styrktarfélagar 1961**

Mr. Jóhann Th. Beck

Mr. Björgúlfur Sveinsson

Mrs. Lovísa Gíslason

Miss H. Kristjánsson

Mr. Árni Sigurðsson

Mr. Óðinn Thornton

Mrs. Kristín Thorsteinsson, í hjartkærri minningu um elskulega dóttur sína, Mrs. Sylvíu Kardal, dáin 10. júní 1961, fædd 1. ágúst 1910.

Mr. J. Walter Johannson

Mr. Grettir Leo Johannson.

Mr. K. W. Johannson

**D. Ævifélagar**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson leikstjóri, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Ásmundur Jónsson, Reykjavík

Landsbanki Íslands, Reykjavík

Miss Kristín H. Pétursdóttir, Reykjavík

2. KANADA

**Ashern, Man.**

Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**
Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**
J. A. Sveinsson

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**Foam Lake, Sask.**
Mrs. Steinunn Inge

**Gimli, Man.**
Miss Ljótunn Thorsteinsson

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Montreal, Ont.**
Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**
Mrs. Fríða Phillipson
Kristján Einarsson

**Pigeon Point, Man.**
Valgeir G. Stadfeld

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Joh. Stadfeld

**Saichton, B.C.**
Mrs. Thordis Fisher

**Vancouver, B.C.**
Mrs. S. Johnson
C. M. Ísfjörð

**Leslie, Sask.**
Rósmundur Árnason
Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundsson
Thorsteinn Guðmundsson
Jóhann Gíslason
Guðmundur Stefánsson

**Riverton, Man.**
K. G. Stadfeld

**Wapah, Man.**
J. Ragnar Johnson

**Winnipeg, Man.**
Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson

**Wynyard, Sask.**
Jakob J. Norman
Gunnar Jóhannson

3. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Einar Barnes
Ari Bjarnason
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Cismont, Va.**
Prof. Frederic T. Wood

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. Margrét Beck
Mrs. V. Guðmundson,
University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Mopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson,
Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

**Des Moines, Wash.**
Mrs. Mekkin S. Perkins

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Lára Gosh
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Próf. Haraldur Bessason
Varaforseti
Jakob F. Kristjánsson
Skrifari
Heimir Thorgrímsson
Varaskrifari
Benedikt Ólafsson
Gjaldkeri
Jochum Ásgeirsson
Varagjaldkeri
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Fjármálaritari
Gunnar Baldvinsson
Varafjármálaritari
Guðmann Levy
Bókavörður
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:

Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

Ársfélagar:

Harold Axdal
Hannes Anderson
Margrét S. Anderson
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Block
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
H. Björnsson
Skúli Böðvarsson
O. G. Björnsson
Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ólafur Bjarnason, Seattle
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
Marja Björnsson
Dr. Sveinn Björnsson
Jóhannes Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
H. F. Danielson
Mrs. H. F. Danielson
Lína Dunning
Mrs. R. Davidson
C. O. Einarsson
Árni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Jens Elíasson
Ólafía Finnbogason
G. Finnbogason
Fred Friðfinnsson
Mrs. Trausti Friðriksson
Ingunn Gíslason
Mrs. Ragnar Gíslason
J. S. Gillies
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Kristinn Gunnlaugsson
Carl Hanson
Ben Heiðmann
Karólína Heiðmann
Páll Hallson
Th. Hansson
Eric Helgason
Laufey Helgason
Fanney Helgason
Thor Otto Hallson
Jón Hafliðason
Anna Halldórsson
T. L. Hallgrímsson
Jónína Hjálmson
Th. Ísleifson
Mrs. Th. Ísleifson
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Kristín Johnson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Bertha Jones

Mrs. Jóhanna Jónasson
Ingibjörg Johnson
J. G. Jóhannsson
Finnur Johnson
Mrs. G. Johnson
Páll Johnson
Ólína Johnson
Ásmundur Jónsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Miss Halla Josephson
Jón Jóhannesson
K. W. Johannson
Jón Jónatansson
Hlaðgerður Kristjánsson
Mrs. Gestný Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
W. Kristjánsson
Jón K. Laxdal
J. J. Líndal
Una Th. Líndal
W. J. Líndal
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Helgi Marteinsson
Sumarliði Matthews
Jóhann Nordal
Benedikt Ólafsson
Mrs. Ben. Ólafsson
Snorri Olson
Óli Ólafsson
Dr. Tryggvi J. Oleson
Elva Oleson
Sesselja Oddson
Óli Ólafsson
Jónína Olson
L. M. Olson
Margrét Paulson

Mrs. William Paulson
Guðbjörg Paulson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Hannes J. Pétursson
Jón Samson
Rósa Sigfússon
Bergljót Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regina Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Stefán Stefánsson
Ingunn Steinthorson
Hans M. Sveinsson
Guðrún Sveinsson
Björgúlfur Sveinsson
Ingi Sveinsson
Líney Sveinsson
Kristín Sveinsson
Margrét Sigurðsson
Emma Thorvaldsson
Soffanías Thorkelsson
Thor Thorsteinson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson

Carl Vopni
Thorgerður Thordarson
H. G. Stadfeld
Axel Vopnfjörð

**„Vestri" Seattle, Wash.**

Mr. Ólafur Bjarnason
Mrs. Ólafur Bjarnason
Mr. S. Margeirsson
Mrs. S. Margeirsson
Mr. Ted Samúelson
Mrs. Ted Samuelson
Mr. Jón Th. Johnson
Mr. Stefán Hauksson
Mr. Thor Viking
Mrs. Thor Viking
Mr. Fred Nelson
Mr. Snorri Hauksson
Mr. Byron Samúelson
Mrs. Byron Samúelson
Mr. J. J. Miðdal
Mrs. J. J. Miðdal
Mr. Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Mr. Steve B. Johnson
Mrs. Steve B. Johnson
Mr. B. O. Johannson
Mrs. B. O. Johannson
Mrs. Ruth Sigurdson
Mrs. Anna Hanley
Mrs. S. S. Thordarson
Mrs. Emma Scheving
Mr. Pálmi Pálmason
Mrs. Pálmi Pálmason
Mr. Bjarni Jónsson
Mrs. Bjarni Jónsson
Miss Dóra Grimson
Mr. Kristinn Thorsteinson









# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG ÞRIÐJI ÁRGANGUR, 1961

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1962

# Myndir



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

# Heiðursverndarar Þjóðræknisfélagsins



**Forseti Íslands og landstjóri Kanada heilsast með handabandi**

PRÓFESSOR HARALDUR BESSASON:

# Heimsókn forseta Íslands til Kanada

Okkur þykir viðeigandi að geta að nokkru í fertugasta og þriðja árgangi málgagns Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi þess atburðar, sem telja ber meðal hinna merkustu, sem orðið hafa í sögu félagsins frá upphafi. Er hér að sjálfsögðu um að ræða heimsókn forsetahjóna Íslands, herra Ásgeirs Ásgeirssonar og frú Dóru Þórhallsdóttur til Kanada á síðast liðnu hausti.

Þeir, sem starfað hafa að íslenzkum þjóðræknismálum vestanhafs, hafa ósjaldan átt við nokkra erfiðleika að etja. Hin íslenzka vin á sléttum Norður Ameríku á sín landamæri, og þó að Íslendingar séu þar fjölmennir að tiltölu, verður fæð þjóðarbrotsins þjóðræknismálunum stundum fjötur um fót, því að í hafi milljónanna fer lítið fyrir einum.

Þjóðræknisstörf eiga sér oft rætur í tvískiptingu mannlegs eðlis, og fer slíkt eftir aðstæðum og umhverfi. Hugurinn hrærist í tvenns konar heimkynnum, fornum og nýjum. Menn þurfa naumast að flytjast landa í milli til þess að fá skynjað slíka tvískiptingu í sjálfum sér. Hún gerir vart við sig, þegar flutt er úr einu héraði í annað. Átthagafélögin í Reykjavík, höfuðborg Íslands, eru býsna glögg spegilmynd þjóðrækninnar í Vesturheimi. Menn eru nú einu sinni íhaldssamir í innsta eðli sínu og segja ógjarna skilið við andlegar æskustöðvar sínar. Líklega eru Íslendingar fastheldnari í þessum efnum en margir aðrir. Menning þeirra er kennd við varðveizlu, og víst hefir þeim tekizt vel að varðveita höfuðeinkenni sitt, þjóðtunguna. Fæð þjóðarinnar hefir valdið því, að í þjóðræknislegum efnum verður hver Íslendingur að standa af sér meiri veður en þeir, sem eiga að baki milljónirnar. Þegar vegið er að einu þjóðareinkenni íslenzku, finnst einstaklingnum sem stefnt sé að sinni eigin persónu. Er hér að leita skýringarinnar á því, hversu viðkvæmir við Íslendingar erum, ef þjóð okkar er brugðið um einhverjar þær eigindir, sem ekki eiga sér stoð í veruleikanum. Flestir kannast við þær fáránlegu sögur, sem ritaðar voru um Ísland og Íslendinga á miðöldum yfir á meginlandi Evrópu og þau andsvör, sem þær vöktu meðal leiðandi manna á Íslandi. Vestur-Íslendingum gremst oft, þegar þjóðbræður þeirra í vestri tjá fáfræði sína og halda því jafnvel fram, að Ísland sé annaðhvort héraðið umhverfis Kaupmannahöfn eða suðuroddi Grænlands.

Þjóðræknisstörf Íslendinga í Vesturheimi eru jafngömul byggð þeirra þar. Nærri má geta, að á ýmsu hefir oltið í þeim málum frá fyrstu tíð til okkar daga. Fram eftir árum áttu landar vestra við skilningsleysi og fáfræði nágrannanna að búa. Var þetta á stundum ærið þungbært fyr-

ir þá, þar sem þeir voru ei síður búnir andlegum menntum en annarra þjóða menn, sem þeir sátu til borðs með. Snemma varð þó mikil breyting til batnaðar í þessum efnum, og má þakka það traustleika þeirra varna, sem áttu sér rætur í íslenzkri þjóðarsál.

Vitur Íslendingur skrifaði einhvern tíma á þá leið um íslenzkt landkynningarstarf erlendis, að Íslendingar yrðu að gaumgæfa, hvort aðrir vildu í rauninni hlýða á þá og einnig, hvort boðskapnum væri hverju sinni svo farið, að öðrum þætti gróði í að veita honum viðtöku. Þessi orð voru ætluð sem forskrift þeim mönnum, sem stunda upp á þjóðkynningarstarf. Rétt er þó að hafa hugfast, að þjóðkynningarstarf eða landkynningarstarf getur naumast talizt atvinnugrein einstakra manna. Ef til vill má líta á ævi margra sem eina samfellda landkynningu. Í því ljósi hljótum við að minnsta kosti að skoða sögu Vestur-Íslendinga. Þeir fóru ekki vestur um haf í fyrirlestraför, en þeir námu land í vestri, ílentust þar og hafa nú í meira en tvo þriðju hluta aldar hlotið að kynna sjálfa sig og stofnþjóð sína, beinlínis eða óbeinlínis.

Kjarni íslenzkrar menningar hefir frá upphafi gefið sjálfri þjóðinni kjölfestu. Stundum hafa umræðurnar þó ekki spunnizt um það eitt „að vera Íslendingur" í þjóðréttarlegum skilningi. Vestan hafs hefir Íslendingsnafnið einungis bent til uppruna og menningarerfða. Þar urðu menn þegnar nýrra þjóða og hlutu að lúta þeim lögum, sem þær höfðu skráð. En tryggð þessa fólks hefir verið mikil við fornar erfðir. Án slíkrar tryggðar hefðu menn týnt íslenzkri tungu í Vesturheimi jafnauðveldlega og íslenzkar vinnukonur gera í Kaupmannahöfn. Án slíkrar tryggðar hefðum við hér vestra engin íslenzk blöð, engar íslenzkar bækur, enga fræðslu um íslenzk efni, engar messur á íslenzku og engin þau félög, sem láta sig íslenzka menningu nokkru skipta.

Enn er dagur á lofti. Enn eru þau félög starfandi í Vesturheimi, sem láta sér mjög annt um íslenzka tungu og menningu. Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi hefir fylgt fram stefnuskrá sinni af alúð síðustu fjóra áratugina. Vissulega vildi Þjóðræknisfélagið hafa markað dýpri spor, en sá er vilji allra starfandi félaga. Starfsaldur Þjóðræknisfélagsins og fórnfýsi félagsmanna þess á liðnum árum eru glöggt vitni þess, að þjóðræknin á sér djúpar rætur meðal Vestur-Íslendinga. Ég hygg, að óhætt muni að fullyrða, að flestum þeim málum, sem Þjóðræknisfélagið hefir veitt fulltingi sitt, hafi miðað nokkuð áleiðis. Margt hefir að sjálfsögðu orðið til þess að torvelda starf félagsins, og hvert ár hefir búið yfir sínum sérstöku erfiðleikum.

Eitt af þeim dagskrármálum, sem hvað ítarlegast hafa verið rædd á öllum ársþingum Þjóðræknisfélagsins frá upphafi, eru samskiptin við Ísland. Fjarlægðin var lengi vel mikill fjötur um fót og samgöngur landa á milli því strjálar. Með bættum samgöngutækjum hefir mjög rætzt fram úr í þessum efnum, og á hinum síðustu árum hafa gagnkvæm kynni milli Vestur-Íslendinga og



Forsetafylgdin fyrir framan hús Grettis konsúls Johannsonar í Winnipeg

frænda þeirra austan hafs aukizt stórum.

Hvert ár býr yfir sínum erfiðleikum, en rétt er að hugfesta einnig, að á hverju ári ganga ýmsir hlutir í vil. Hollvættir Þjóðræknisfélagsins hafa stundum dugað því svo vel, að jafnvel hinum bjartsýnustu í hópi félagsmanna hefir reynzt það um megn að spá fyrir um velgengni félagsins. Á þetta einkum við um samskiptin við Ísland.

Að vanda var mjög rætt um hin gagnkvæmu menningartengsl á hinu fertugasta og öðru ársþingi Þjóðræknisfélagsins síðast liðið ár. Komu ræður manna víða niður, og leizt mörgum, að vel hefði tekizt til um frændræknina á liðnu ári. Fæstum mun þá hafa boðið í grun, að næsta ár tæki hinu fyrra fram, og var þó svartsýni víðs fjarri þinggestum. En nú leyfist okkur á hinu fertugasta og þriðja ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi að fella dóm um það árið, sem fram undan var í fyrra, en þá óliðið. Er ekki efamál, að menn muni ljúka upp einum munni um, að það ár hafi orðið viðburðaríkast í sögu Þjóðræknisfélagsins frá upphafi. En á árinu taldi félagið meðal gesta sinna forsetahjón Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson og frú Dóru Þórhallsdóttur.

Forsetaembættið er æðsta tákn lýðfrjálsar þjóðar. Meðal Íslendinga leikur mikil birta um það embætti. Það minnir menn ekki einungis á aldalanga baráttu við ofureflið, sem lauk með endurreisn hins íslenzka lýðveldis. Það á og að vera hverjum Íslendingi hvöt til þess að standa dyggilega vörð um frelsi sitt og menningarerfðir, þessa dýrgripi, sem engin þjóð vildi án vera.

Þegar þjóðhöfðingi Íslands heimsækir Kanada í boði landsstjórnarinnar, er um gagnkvæma virðingu að ræða. Í heimboðinu sjálfu felst mikil viðurkenning, og vissulega er það mikil virðing að taka á móti æðsta manni hins forna, en þó unga íslenzka lýðveldis.

Kanadamenn spyrja margs um Ísland, og finnst manni stundum, að þar sé um langan og oft heldur fáfarinn veg tíðindi að spyrja. Þessi tvö lönd hafa átt minna saman að sælda en vert væri. Vitneskja Kanadamanna um eylandið byggist einkum á kynnum af þeim þegnum kanadískum, sem eru íslenzkrar ættar. Þekking Íslendinga á hinu mikla landi norðursins hefir og að vonum verið mjög bundin við Rauðárdalinn og önnur þau héruð, sem landar þeirra námu í öndverðu. Á hinum síðari árum hefir þetta þó breytzt. Atburðir í heimspólitík hafa skipað báðum þjóðum á einn bekk, og mikla eindregni sýndu þær báðar með tillögugerð um lausn þeirra vandamála, sem varða fiskveiðiréttindi einstakra þjóða í Norðurhöfum. Við hljótum að skoða heimboð forseta Íslands til Kanada sem sönnun þess, að hin æðstu kanadísku stjórnarvöld vilji brúa það bil, sem verið hefir landa í milli. Hlýtur slíkt að vera óblandað fagnaðarefni öllum, sem láta sig skipta málefni beggja þjóðanna.

Meðan forsetahjón Íslands gistu Kanada á liðnu hausti, mátti segja, að Ísland væri á hvers manns vörum. Stærstu blöð landsins birtu ítarlegar frásagnir um heimsóknina dag hvern. Sumir dálkar þessara blaða

voru eins konar Íslandssaga í hnotskurn. Hvarvettna mátti greina hlýhug í garð hinnar íslenzku þjóðar. Mér er nær að halda, að Vesturfylkin kandísku hafi ei vitað fyrri, hve mörgum mönnum íslenzkrar ættar þau ættu á að skipa. Kom þetta glögglega í ljós í hinni vestur-íslenzku höfuðborg, Winnipeg. Svo vill stundum verða, að íslenzkar samkomur séu misjafnlega sóttar í þeirri borg. Þegar efnt var til veizluhalds til heiðurs hinum íslenzku forsetahjónum og fylgdarliði þeirra, urðu heimtur slíkar, að betri höfðu ei áður þekkzt. Á samsæti því, sem Þjóðræknisfélagið hélt hinum tignu gestum á Hótel Fort Garry í Winnipeg, mátti líta marga, sem voru langt að komnir. Sumir höfðu komið alla leið frá Kaliforníu. Má fullyrða, að enginn atburður hafi nokkru sinni höfðað meir til íslenzkrar samkenndar í Vesturheimi en koma forsetahjónanna.

Þjóðhöfðinginn er sameiningartákn alþjóðar og merkisberi hinnar þjóðlegu menningar, eins og hún hefir verið í fortíð og eins og hún er í nútíð. Það skiptir þess vegna miklu máli, að til forystunnar veljist hinir hæfustu og beztu menn hverju sinni. Hinu unga íslenzka lýðveldi hefir farizt giftusamlega um val stafnbúa sinna. Tveir menn hafa farið með forsetavald á Íslandi frá endurreisn lýðveldisins. Báðir hafa þeir reynzt dyggir þjónar hins háa embættis og aukið hróður þjóðar sinnar, bæði innan lands og utan. Kanadamenn og Vestur-Íslendingar sannreyndu þetta síðast liðið haust.

Þegar stjórn Þjóðræknisfélagsins var formlega skýrt frá því á útmánuðum nýliðins árs, að forseti Íslands væri væntanlegur vestur um haf, færðist nýtt líf í starfsemi félagsins. Nefnd manna var skipuð fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins af forseta þess, dr. Richard Beck, til þess að undirbúa að nokkru móttökur í Vestur-Kanada. Þessi nefnd sat á rökstólum sumarmánuðina. Formaður nefndar var ræðismaður Íslands í sléttufylkjunum kanadísku, herra Grettir Leó Jóhannson. Það er skylt að þakka ræðismanninum fyrir frábæra frammistöðu og mikla og ágæta forystu.

Að kvöldi laugardagsins hins 16. september á liðnu hausti efndi Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi, eins og fyrr greinir, til móttökugildis fyrir forseta Íslands, frú hans og fylgdarlð í salarkynnum veglegasta gistihúss Winnipegborgar. Veður var hið blíðasta, gestir í hátíðisskapi, og hvert sæti var skipað. Margir tóku til máls í samkvæminu, og sjálfur flutti forsetinn merka ræðu við þetta tækifæri. Það er óhætt að fullyrða, að þessi mannfagnaður hafi tekið fram öðrum fundum, sem Þjóðræknisfélagið hefir efnt til frá upphafi. Fer vel á slíku, því tilefnið var mikið.

Mannfagnaðurinn að Hótel Fort Garry (en það er nafn fyrr greinds gistihúss) var táknmynd um sögu hins íslenzka kynstofns síðustu þrjá aldarfjórðungana. Sjálft umhverfið kann að hafa mælt „á orðlausu máli“ til viðstaddra þetta fagra septemberkvöld, er þeir fögnuðu forseta íslenzka lýðveldisins og heiðursverndara Þjóðræknisfélagsins í glæstum veizlusal á bökkum Rauðár. Nærri níu áratugum fyrr höfðu þessir sömu

bakkar orðið fyrsti samkomustaður Íslendinga í Manitoba. Þeir voru þá að kalla nýkomnir frá heimalandi sínu, því landi, sem þeir unnu meira en öðrum löndum, þó að það væri þá enn í fjötrum fátæktar og bágborins stjórnarfars. Sléttuborgin Winnipeg var þá þorp eitt, og utan við þorpið var sléttan, sem bjó yfir leyndardómum og erfiðleikum. Þar áttu upphafsörðugleikar og heimþrá eftir að sverfa að og stundum sigra líkamlegt þrek Íslendingsins. Varla þarf í grafgötur um það að ganga, að íslenzkar sálir voru fullar efasemdar á því herrans ári 1875. Vestmenn voru vegvilltir í nýju umhverfi. Austmenn bjuggu ráðvilltir við ill kjör. Það er ef til vill ein af höfuðdygðum íslenzkrar þjóðarsálar að hafa lifað í meira en þúsund ár. Slíkt langlífi ber vott um andlegan þrótt. Mjög svarf þó að þessari sál á myrkum öldum, en eftir langnættið kemur birtan aftur, og með birtunni kemur afturbatinn. Það virðist ekki skipta höfuðmáli, hvort umhverfið er eyland norður við Íshaf eða mislyndar sléttur meginlands Norður-Ameríku.

Haustið 1875 stóð fátæklegur hópur Íslendinga í fátæklegu þorpi á bökkum Rauðár. Víst átti þetta fólk sínar framtíðarvonir. Ugglaust hefir þó engum flogið í hug, að svo skjótlega rættist fram úr fyrir Íslendingum austan hafs og vestan, að á öndverðum síðari helmingi hinnar 20. aldar myndu synir og dætur íslenzku landnemanna í Manitoba heilsa forseta íslenzka lýðveldisins í glæstum sölum stórborgarinnar, sem þeir kynntust fyrst sem fremur óásjálegu þorpi í framtíðarlandinu á bökkum Rauðár.

Örlaganornirnar voru Íslendingum grimmar um aldir, en ekki er annað sýnna, en að þær hafi nú um skeið verið að keppast við að bæta fyrir fornar misgjörðir.



**Bessastaðir á Álftanesi**

DR. S. E. BJÖRNSSON:

# Óður til Vestanvindsins

### P. B. SHELLEY

Zephyrus frjálsi andi hausts þú ert;
þitt eðli hulið flýja blöðin smá,
er visnuð fjúka um landið litabert;
líkt eins og vofur galdramanni frá;
landplágusýktur sægur. Litafjöld
á lyng þú málar, er í jarðar ból
þú leggur vængjuð fræ, um vetrarkvöld,
á væran beð, sem lík í grafarskjól.
Unz grænklædd vordís vel þeim fagna skal,
er vekur hún af blundi kalda jörð,
og klæðir litum fjöll og fagran dal,
frjóhnappa nærir, líkt og sauðahjörð.
Þú frjálsi andi, er yfir löndin fer,
eyðandi lífs og viðhald; seg þú mér!

Við strauma þinna afl og ástarhót
óveðraskýin, líkt og visin blöð,
slitna frá himins grunni og hafsins rót;
húmvofur elds og skúra, fylking hröð,
á bláum feldi lofts á himin leið,
sem lokkasafn, er rís af fölri brá
á skapanorn, er þylur svikaseið
við sjónhring yztan hvirfilpunkti frá.
Nú kembir stormsins sterka mund sitt hár,
er strenglög dagsins blandast kveldsins hljóm;
en yfir næturhimin breiðist blár,
sem bláhvolf kirkju, er stendur auð og tóm
en fyllist brátt, er hagl á hvörmum deyr
í hljóða nótt, með daggartár. Ó heyr!

Þú vaktir fyrr af sumarblíðum blund
blátt Miðjarðarhaf, er þögult lá
á beði, snert af þinni máttarmund
hjá mætri Pumisey; í djúpsins gljá
þú aldna turna eygðir himni frá,
í öldum hafsins laugast svefni vært;
með bláan mosa og blómareiti smá,
er blanda ilmi sjávarloftið tært.
Þú, sem um Atlants ölduvíða geim
öruggum fótum kafar djúpsins skál,
og urt, sem vex í botnsins hulda heim
hræðist þá raust, er talar stormsins mál,
sem fjóla smá í frosti hausts er deyr
í faðm hins mikla djúps. Ó heyr! Ó heyr!
Kenn mér þitt flug, sem létt og visið lauf
lyfti sér hljótt, á fleygum skýjavæng,
sem alda smá, er yfirborðið rauf
og yndis naut í loftsins mjúku sæng.
Eg aðeins vil á öllu lag og hóf;
en ei sem fyrr á tíð, eg leiddist með,
er fram þú gekkst og árdagsvoðir óf
þín iðjuhönd, með karlmannsþor og geð.
Þú aldrei hafðir raunir reynt; né séð
á reynslustund mig fella höfug tár.
Ó lyft þú mér, sem laufi skýjum með,
mitt líf á þyrnum hæða blóðug sár
og dagsins stríð í læðing lagði mig,
sem líkist þér í mörgu, og elska þig.

Ger mig að hörpu lífs, í hrjúfum skóg.
Þar haustlauf visin falla um ævikvöld.
Í dánarhljómum harpa þín fær nóg
af hverfulleikans ríka tóna fjöld,
með harmblæ dags. Mitt hjarta snert og sál.
Minn huga vek og þrótt til starfs á ný.
Lát sýktan vilja, vonlaust stundartál,
sem visnuð laufin, falla, í stormsins gný.
Nýtt líf mér gef, með sál í glöðum söng
og sigurorð þitt breið um víðan heim,
sem ljóssins blik, á dægur dimm og löng,
af dvala vekur líf um myrkan geim.
Syngur ei vetur vorsins ljúfa lag,
um ljóssins mátt og nýjan sumardag?

Prófessor RICHARD BECK:

# Aldarafmæli Hannesar Hafstein

1861 — 1922 — 1961

I.

**Heilir hildar til,**
**heilir hildi frá**
**koma hermenn vorgróðurs Ísalands.**

Þessar ljóðlínur sínar, úr kvæðinu „Vor“, valdi Hannes Hafstein að einkunnarorðum heildarútgáfu kvæða sinna 1916, og skipa þau sama sess í hliðstæðum seinni útgáfum þeirra. En því er þessi tilvitnun einnig valin að einkunnarorðum þessarar aldarminningar skáldsins, að jafnframt því og hún lýsir bjartsýni hans á á íslenzkan málstað og framtíðartrú, þá er þar að finna ágæta lýsingu á sjálfum honum, þar sem hann var óneitanlega einn af „hermönnum vorgróðurs Ísalands“, öndvegishöldur í þeirri fríðu fylkingu íslenzkra aldamótamanna, er hófu með mörgum hætti hátt við loft merki frelsis og framfara í þjóðar þágu, settu bæði sterkan svip sinn á það tímabil í sögu hennar og mörkuðu þar djúp spor og varanleg. Það er hverju orði sannara, þegar Vilhjálmur Þ. Gíslason, núverandi útvarpsstjóri, kemst svo að orði í upphafi prýðilegrar inngangsritgerðar sinnar að úrvalinu úr kvæðum Hannesar Hafsteins (**Ljóðmælum**), er út kom á vegum Menningarsjóðs (Reykjavík 1944):



**Hannes Hafstein**

„Kringum aldamótin kom fram eða efldist til nýrra átaka mikið mannval í landinu, bæði í andlegum málum og atvinnumálum. Þeir menn voru ólíkir um ýmsa hluti, en andstæðir um aðra. Samt má sjá einn svip aldarfarsins, vissa einingu í fjölbreytni manna og málefna. Tími aldamótamannanna er þjóðlegur, hafði samt nýja víða útsýn til umheimsins. Hann hafði trú á andleg-

um verðmætum og mátt til að efla þau, en einnig nýjan skilning á nauðsyn verklegra framkvæmda, nýrra atvinnuvega, vísinda og mannréttinda. Þessir menn voru kappsfullir og ótrauðir með forsjá og skynsamlega bjartsýnir, markssæknir menn. — Í þessum hóp var Hannes Hafstein leiðtogi nýs tíma í landinu.“

Hinn 4. des. í haust voru hundrað ár liðin frá fæðingu Hannesar Hafsteins. Var þeirra tímamóta að sjálfsögðu minnzt að verðugu með ýmsum hætti heima á ættjörðinni. Meðal annars efndu Háskólaráð Íslands, Almenna bókafélagið og Stúdentafélag Reykjavíkur til veglegrar hátíðar í tilefni af aldarafmæli skáldsins. Einnig kom út fyrra bindi ævisögu hans eftir Kristján Albertsson rithöfund. Því miður, er sú bók eigi komin í hendur greinarhöfundar, þegar þetta er ritað, en ekki er að efa, að þar sé um verðugt og heillandi viðfangsefni farið högum höndum og skrifað af þekkingu og sambærilegum skilningi. En sem Íslendingar, og vafalaust einnig margir í vorum hópi sem einstaklingar, eigum vér Vestur-Íslendingar Hannesi Hafstein þá þjóðernislegu og menningarlegu skuld að gjalda, að eigi sæmir oss að láta aldarafmæli hans þegjandi fram hjá oss fara. Má í því sambandi minna á eftirfarandi erindi úr hinu fagra kvæði hans við áraskiptin 1901-1902, sem enn er tímabært og hefir þau sannindi að geyma, sem oss eru verð íhugunar, Íslendingum vestan hafs, eigi síður en löndum vorum austan hafsins:

Þeir menn, sem börðust fremst, með traustri trú,
til takmarks þess, sem loks er fært að ná,
þeir eru horfnir heim um glæsta brú
og heiður þeirra einn nú dvelst oss hjá.
En andar þeirra horfa og hlusta á
hvert hjartaslag, sem snertir þeirra starf.
Þeir benda þjóð að falla nú ei frá
né fyrirgera nú svo dýrum arf,
en muna hvað hún var og hvað hún er og þarf.

## II.

Í lífi og starfi Hannesar Hafsteins sameinuðust eiginleikar athafnamannsins — stjórnmálaleiðtogans — og skáldsins með óvenjulegum hætti, þó raunar megi segja, að honum svipi í þeim efnum til annarra íslenzkra skálda, fyrr og síðar, sem jafnframt voru framkvæmda- og forustumenn, gæddir miklum foringjahæfileikum samhliða listgáfu sinni.

Hann var fæddur að Möðruvöllum í Hörgárdal 4. des. 1861, sonur Péturs Hafsteins amtmanns og Kristjönu Gunnarsdóttur frá Laufási, systur Tryggva Gunnarssonar, hins stórbrotna framkvæmdamanns. Stóðu því að Hannesi traustir stofnar, mikilhæft fólk á báðar hendur, þar sem saman fóru þjóðmálaáhugi og forustuhæfileikar, skáldgáfa og listhneigð af öðru tagi. Hann var óvenjulega bráðþroska og settur til mennta mjög ungur; varð stúdent frá Lærða skólanum í Reykjavík átján ára gamall, en lauk lagaprófi við Kaupmannahafnarháskóla 1886, hálf-þrítugur að aldri. Hann var landritari 1889-95, sýslumaður í Ísafjarðarsýslu 1895-1904, alþingismaður frá 1900, ráðherra Íslands 1904, fyrstur Íslendinga í þeim virðingarsessi, er hann skipaði til 1909, og aftur 1912-1914.

Hinn 1. febrúar 1904, er Hannes Hafstein tók við embætti sínu sem fyrsti íslenzki ráðherrann, mun jafnan verða talinn merkisdagur í íslenzkri stjórnmálasögu. Samtímis var ísenzka ráðuneytið í Kaupmannhöfn afnumið og landshöfðingjadæmið lagt niður, en sett á stofn stjórnarráð í Reykjavík. Stjórnin var nú, með öðrum orðum, flutt inn í landið, draumurinn um heimastjórn orðinn að veruleika. Kom það einnig fljótt á daginn, að með þeirri réttarbót þjóðinni til handa hafði hið farsælasta og áhrifaríkasta spor stigið verið í menningarmálum hennar og verklegum framkvæmdum.

Valdist einnig fyrstur Íslendinga í ráðherrasessinn óvenjulegur hæfileika- og forustumaður, þar sem Hannes Hafstein var frábært glæsimenni og gæddur fágætu andans atgervi, eitt af fremstu og vinsælustu skáldum þjóðarinnar og jafnframt langsýnn hugsjónamaður og aðsópsmikill athafnamaður.

Aldamótaárið var hann kosinn á þing fyrir Ísfirðinga og sat fyrst á þingi næsta ár; hneigðist hugur hans nú stöðugt meir að stjórnmálum, en skáldskapurinn laut að sama skapi í lægra haldi; samt orti hann einmitt á þessum árum, meðal annarra ágætiskvæða, hin snjöllu og margdáðu aldamótaljóð sín, þar sem hann sér spámannlegar sýnir, en undir ólgar heitur straumur ættjarðarástar:

Sú kemur tíð, er upp af alda hvarfi
upp rís þú, Frón, og gengur frjálst að arfi,
öflin þín huldu geysast sterk að starfi,
steinurðir skreytir aftur gróðrar farfi.

Sú kemur tíð, er sárin foldar gróa,
sveitirnar fyllast, akrar hylja móa,
brauð veitir sonum móðurmoldin frjóa
menningin vex í lundi nýrra skóga.

Sé ég í anda knör og vagna knúða
krafti, sem vannst úr fossa þinna skrúða,
stritandi vélar, starfsmenn glaða og prúða,
stjórnfrjálsa þjóð, með verzlun eigin búða.

Í fyrrnefndri ritgerð sinni túlkar Vilhj. Þ. Gíslason þetta afbragðskvæði skáldsins laukrétt í þessum orðum: „Það kvæði er merkissteinn í sögunni. Það er eggjun og stefnuskrá. Það er tímamótakvæði á borð við Ísland farsælda frón og Vorhvöt. Það flytur boðskap nýs anda og nýrra athafna. Það ber einnig vott um nýja afstöðu Hannesar Hafstein, nýjan tón. Frjálslyndi, frelsisást og framfarahugur er þar enn. En þessi einkenni hafa slípazt og þroskazt, orðið dýpri og rólegri en áður. Nú kemur fram nýr skilningur hans á sögu, þjóðerni og trú. En fyrst og fremst er kvæðið boðskapur nýs aldaranda, nýrrar hagnýtrar ættjarðarástar.“ Enn fremur falla Vilhjálmi þannig orð um þessa andríku lögeggjan skáldsins til dáða: „Það mætti segja, að aldamótakvæðið væri skáldleg stefnuskrá heimastjórnartímans.“

Eigi þarf nema að stikla á stærstu steinunum í margþættum framkvæmdum á því mikla framfaratímabili til þess að sannfærast um það, að ofangreind staðhæfing um aldamótakvæðið hefir við rök að styðjast. Jónas Jónsson frá Hriflu, fyrrv. ráðherra, tók einnig í sama streng í hinni greinagóðu og gagnfróðlegu yfirlitsgrein sinni „Valdamenn á Íslandi 1874-1940 í **Almanaki**

Hins ísl. Þjóðvinafélags (Reykjavík, 1940):

„Alda nútímaframfara var nú að brjótast inn yfir þjóðina á öllum sviðum. Síðustu ár landshöfðingjatímabilsins höfðu verið góður undirbúningstími. Nú kom innlend stjórn, undir forustu stórhuga athafnamanns. Hann valdi til starfsmanna í hinar nýju skrifstofur færustu menn, sem völ var á, og bjó stjórnarráðið að þeirri gerð um langa stund. Hannes Hafstein beitti sér fyrir að koma skipulagi á fræðslu barna, stofnsetti Kennaraskólann undir vel hæfri stjórn, byrjaði að hlynna að skógrækt og skóggræðslu, lét reisa safnhúsið yfir Landsbókasafnið, Náttúrugripasafnið, Þjóðskjalasafnið og Forngripasafnið. Og að lokum tókst honum að fá sæsíma lagðan frá Englandi til Austfjarða og þaðan yfir landið til Reykjavíkur. Þegar landið var komið í símasamband við umheiminn, fluttist yfirstjórn íslenzkrar verzlunar til Reykjavíkur. Sjávarútvegur blómgaðist. Landsmenn eignuðust allmarga togara og mikið af vélbátum. Það fór nýr andi gegnum þjóðlífið. Mörgum þótti sem skáldadraumar Hannesar Hafsteins úr aldamótaljóðum hans ætluðu brátt að rætast.“

Um hitt verður ekki fjölyrt hér, þar sem þessari grein er sérstaklega ætlað að fjalla um skáldskap Hannesar Hafsteins, að hörð átök urðu oft um málin á þessum árum, svo sem um símamálið og sjálfstæðismálin, er urðu Hannesi Hafstein og flokksmönnum hans að falli í kosningunum sögulegu árið 1908. Fékk hann þá einnig, eins og raunar oftar í ráðherratíð sinni, að kenna á sannleik orða skáldsins: „Stendur um stóra menn stormur úr hverri átti.“ Speglast reynsla hans frá þeim árum einnig á merkilegan hátt í ýmsum ágætustu kvæðum hans, er hann orti á seinni árum sínum, og þá ekki sízt í hinu stórbrotna kvæði hans „Í hafísnum“.

Þótt hér hafi verið farið fljótt yfir sögu um stjórnmálaferil og ráðherratíð Hannesar Hafsteins, ætla ég, að nóg hafi verið þeirri fullyrðingu til staðfestingar, að með innlendri stjórn undir forustu hans hófst blómlegt tímabil margþættra og mikilvægra framfara í lífi þjóðarinnar. Skylt er þá einnig að geta þess, að hann stóð ekki einn í starfi og stríði, en átti sér við hlið afburða eiginkonu, Ragnheiði Stefánsdóttur Thordersen, fósturdóttur Sigurðar Melsted, er var manni sínum ómetanlegur lífsförunautur, meðan hennar naut við. Þeim orðum til áréttingar leyfi ég mér að vitna til eftirfarandi ummæla Péturs Zóphóníassonar, er talar þar út frá nánum kunnugleika („Foringinn Hannes Hafstein“, **Lesbók Morgunblaðsins**, 30. nóvember 1941, sem helguð var sérstaklega 80 ára afmæli H. Hafsteins):

„En Hannes Hafstein hefði ekki orðið sá ótrauði merkisberi þjóðar sinnar, sem hann var, hefði hann ekki notið hinnar ágætu konu sinnar, sem ekki aðeins var fríð með afbrigðum og glæsileg, heldur fyrst og fremst góð kona og göfug, er fylgdi manni sínum að málum, enda kveður hann meðal annars til hennar:

Gott er nú á lífið fram að líta,
ljúft er með þér starfi dags að hlíta.
Hækkar sól og glæstri för vill flýta.
Faðmi þig gæfan og leiði þín spor.
Sjá, framtíðin bíður, með blómþakið
skaut,
og blasa við hlíðar með gróður og skraut.
Sjá, röðullinn blikar svo blíður og fagur.
Sé blessaður ætíð þinn fæðingardagur.

Verður síðar að því vikið, hvert reiðarslag honum var missir sinnar elskuðu eiginkonu á miðju ævidægri hennar. Sjálfur andaðist hann 13. desember 1922 eftir langa vanheilsu.

III.

Ungur tók Hannes Hafstein að yrkja, og er það til marks um það, hve bráðþroska hann var í þeim efnum, að á tvítugsaldri orti hann ágæt kvæði „þrungin af þrótti og æskufjöri“ (S. Nordal), framsóknaranda og föðurlandsást, er fundu næman hljómgrunn hjá löndum hans og öfluðu honum mikilla vinsælda. Skólabróðir hans og samherji frá yngri árum, Einar H. Kvaran, ritaði í **Eimreiðina** (1932) merkilega og skemmtilega grein, „Hannes Hafstein á stúdentsárunum“, og tekur þar upp í greinarlok neðanskráð ummæli úr grein, sem hann hafði skrifað í **Lögréttu** um útgáfuna af ljóðum Hannesar, er út kom árið 1916:

„Ég veit ekki, hvort nokkrum er kunnugt um Íslending, sem hafi verið meira bráðþroska en Hannes Hafstein. Á þessum árum lét hann, stundum dag eftir dag, rigna yfir okkur vini sína ljóðum, sem okkur fundust merkilegir viðburðir í bókmenntum þjóðarinnar — og voru það líka. Ljóð þessa tvítuga manns hafa orðið „klassisk“. Þau hafa verið á vörum hvers Íslendings, sem nokkurn tíma hefur tekið sér ljóð í munn. Menn hafa vitnað til þeirra, að sínu leyti eins og til alþekktra málshátta. Börnin hafa lært þau í skólum og heimahúsum. Menn hafa lesið þau og sungið í ölteiti. Og prestarnir hafa farið með erindi úr þeim á prédikunarstólnum.

Farandspákona náði einu sinni í hann á þessum árum. Hún vissi ekkert um hann, hver hann væri eða hvaðan hann væri. Hún sagði honum, að það ætti fyrir honum að liggja að verða æðstur maður á sínu landi. Við höfðum enga ofsatrú á spádómum á þeim árum. En þessi spádómur þótti okkur, vinum hans, sennilegur. Hann var fríðastur sýnum, gervilegastur og glæsilegastur Íslendingur, sem við höfum séð. Hann var, eins og Snorri Sturluson kveður að orði um Ólaf Tryggvason, „allra manna glaðastur“. Hann virtist fæddur til þess að verða gæfumaður. Og metorð og völd töldum við að sjálfsögðu gæfu.

En hvað sem því leið, þurftum við ekki að fá neina spákonu til þess að segja okkur það, að hann mundi verða talinn með mestu skáldum Íslendinga. Við vorum ekki í neinum vafa um, að hann var **orðinn** það.“

Framan af árum birtust kvæði Hannesar í ýmsum íslenzkum blöðum og tímaritum, en fyrsta kvæðasafn hans, **Ýmsisleg ljóðmæli,** komu út 1893. Heildarútgáfa ljóða hans, **Ljóða-bók,** var prentað 1916, öðru sinni, mikið aukin, 1925, og endurprentuð 1951. Annaðist Tómas Guðmundsson skáld þá útgáfu og fylgdi henni úr hlaði með gagnorðum formála. Úrval úr kvæðum Hannesar hefir tvisvar verið gefið út: **Ljóðmæli,** sem Vilhjálmur Þ. Gíslason

bjó til prentunar, og fyrr er vikið að, og **Úrvalsljóð** (1946), er Þorsteinn skáld Gíslason hafði safnað til.

Hannes Hafstein var, eins og alkunnugt er, einn af fjórum íslenzkum stúdentum í Kaupmannahöfn, sem hófu útgáfu ársritsins **Verðandi** (1882), með það fyrir augum að kynna löndum sínum Raunsæisstefnuna (Realismann), en þeir höfðu kynnzt henni og komizt undir áhrif hennar, og höfuðformælanda hennar, Georgs Brandes, á skólaárunum í Kaupmannahöfn. Fjórmenningarnir, sem stóðu að útgáfu þessa merka tímamótarits í íslenzkri bókmenntasögu, voru, auk Hannesar Hafsteins, Bertel E. Ó. Þorleifsson, Einar Hjörleifsson (Kvaran) og Gestur Pálsson. Hér verður aðeins vikið að hlutdeild Hannesar í ritinu, en kvæði hans þar bera því órækt vitni, hve hann var á þeim árum ótrauður formælandi hinnar nýju stefnu í bókmenntum og þjóðfélagsmálum. Vöktu þau kvæði hans einnig víðtæka athygli og sýndu, að þar var að verki skáld gætt óvenjulegri ljóðgáfu. En þrátt fyrir það, að **Verðandi** vakti verðskuldaða eftirtekt og honum væri vel tekið af mörgum, varð hann eigi langlífur, og kom aðeins út einn árgangur hans. En Hannes var einnig einn af aðalstuðningsmönnum mánaðarritsins **Heimdalls**, er hóf göngu sína í Kaupmannahöfn 1884, og lýsir þar sér eigi síður fylgi hans við Raunsæisstefnuna, ekki sízt í kvæðum hans í því riti, svo sem „Strikum yfir stóru orðin" og „Sannleikurinn og kirkjan", sem eru beint í anda Raunsæisstefnunnar. Hann hafði nú kynnzt Brandes persónulega og skrifaði um hann vinsamlega og skilningsríka grein í **Heimdalli**, og þýddi kafla úr hinum frægu **Höfuðstraumum** hans. Í ritinu eru einnig þýðingar Hannesar á kvæðum eftir Hinrik Ibsen, meðal annars kvæði hans til byltingamannsins.

Eftir að hann hvarf heim til Íslands að loknu háskólanámi, hélt Hannes Hafstein áfram að vera skeleggur formælandi Raunsæisstefnunnar, og um annað fram með fyrirlestri þeim um „Ástand íslenzks skáldskapar nú tímum", er hann flutti í Reykjavík í ársbyrjun 1888. Taldi hann íslenzkan samtíðarskáldskap vera í afturför, gagnrýndi hann fyrir úrelt yrkisefni, og taldi hann ekki vera í nógum tengslum við samtíðina og þróun hennar í stjórnmálum og þjóðlífi. Hér eru það hreinræktaðar kenningar Raunsæisstefnunnar, sem efstar eru á baugi og undiraldan, en samkvæmt þeim kenningum átti aðaltakmark bókmenntanna að vera það: að rökræða vandamálin og kryfja þau til mergjar. Svo kvað hér við nýjan tón, að þessi fyrirlestur Hannesar vakti, að vonum, bæði umræður og blaðadeilur. Meðal annarra hóf Benedikt Gröndal skáld upp sverð sitt til varnar rómantísku stefnunni og hinum eldri þjóðskáldum í kröftugum fyrirlestri og skádinu líkum um fjörspretti, fyndni og andans flug. Er þessi bókmenntadeila athyglisverður þáttur í sögu íslenzkra bókmennta.

Flest af kvæðum Hannesar Hafsteins voru ort á fyrri hluta ævi hans, því á seinni árum, er stjórnmálin og embættisstörfin tóku upp mestan tíma hans, gafst honum lít-

**Útgáfumálanefnd**

Guðmann Levy
Jónas Jónasson
Páll Stefánsson.

Grettir L. Johannson flutti þessu næst viðbót við þá skýrslu, sem hann hafði áður gefið á þinginu. Las Grettir þinggestum bréf frá Sigurði Sigurgeirssyni í Reykjavík og reikningsyfirlit frá honum. Þá skýrði Grettir frá því, að Þjóðræknisfélagið hefði fengið að gjöf frá Þjóðræknisfélaginu heima leikritið Hrólf eftir Sigurð Pétursson, en það hefði verið tekið upp á segulband. Dr. Beck þakkaði í nafni Þjóðræknisfélagsins, en Grettir gerði tillögu um, að skýrslu sinni yrði vísað til fjármálanefndar. Mrs. Kristín Thorsteinsson studdi þá tillögu, og var hún samþykkt.

Ritari las viðbót við ársskýrslu Gimlideildar, þar sem frá því var skýrt, að bæjarstjórn Gimlibæjar hefði verið minnt á það, að Minnisvarði landnemanna væri bæjarins eign og að bæjarstjórnin hefði lofazt til skömmu eftir byggingu minnisvarðans að annast hann og landið umhverfis. Nokkra gleymsku mun bæjarstjórnin hafa sýnt í þessu máli, en hefir nú fastlega lofað að rækja allar skyldur sínar varðandi eftirlit og umhirðu minnisvarðans og umhverfis hans.

Guðmann Levy skýrði frá því, að S. A. Björnson og séra Hjalti Guðmundsson væru mættir á þingi sem fulltrúar „Bárunnar“ á Mountain í Norður Dakota og færu þeir með 10 atkvæði hvor. Borin var fram tillaga um að veita þeim Mr. Björnson og séra Hjalta full þingréttindi. Var sú tillaga þegar studd og samþykkt.

Grettir L. Johannson las bréf frá séra Braga Friðrikssyni í Reykjavík varðandi samvinnumál við Ísland. Var erindi séra Braga vísað til samvinnumálanefndar. Fundi var síðan frestað þangað til kl. 2 e. h.

**Fjórði fundur**

var settur kl. 2.15 e. h., mánud. 21. febr. 1961. Fundargerð síðasta fundar var lesin og samþykkt. Ritari las því næst ársskýrslu deildarinnar „Aldan“ í Blaine, Washington.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar „Aldan“ í Blaine ,Washington**

Árið 1960 hefir þjóðræknisdeildin „Aldan“ í Blaine, Washington haldið í horfinu líkt og að undanförnu undir forystu okkar ágæta forseta, séra Alberts E. Kristjánssonar. Fjórir starfsmálafundir voru haldnir á árinu og auk þess tvær almennar skemmtisamkomur. Sú fyrri var haldin á sumardaginn fyrsta, 21. apríl, en sú síðari 26. október, og tókust þær báðar vel. Ýmissa erfiðleika vegna var 17. júní ekki minnzt með opinberu hátíðarhaldi.

Annan september sá „Aldan“ um sýningu á eftirprentunum íslenzkra listaverka, sem séra Jón Bjarman hafði til kynningar hér vestra. Á síðasta fundi ársins var ákveðið, að „Aldan“ skyldi gerast meðlimur í Skógræktarfélagi Íslands frá næstu áramótum og greiða tíu dala árstillag. Til elliheimilisins Stafholts gaf „Aldan“ $300.00.

Sú uppbyggilega ánægja veittist Öldunni, að dr. og Mrs. Sveinn E. Björnson og Thorbjörg Ruby Couch, sem eru öll búsett í White Rock, B.C., og Gísli Benedictson, nú einnig í White Rock, gerðust meðlimir frá ársbyrjun 1961.

Eins og verið hefir, frá því að „Aldan“ var stofnuð, eru eindrægni og góð samvinna í bezta lagi, og er það eitt aðalatriðið í velfarnaði og ánægju í hverjum félagsskap.

Meðlimatala deildarinnar er nú 34.

**Albert E. Kristjánsson**
forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**
ritari.

Þjóðræknisdeildin „Aldan“ í Blaine, Washington sendir hinu fertugasta og öðru ársþingi Íslendinga í Vesturheimi alúðar kveðju og einlæga ósk um heppilega úrlausn allra mála og væntir þess, að þingið verði sem ánægjulegast.

**Albert E. Kristjánsson**
forseti
**Dagbjört Vopnfjörð**
ritari.

Flutningsmaður lagði til, að skýrslan yrði viðtekin. Miss Guðbjörg Sigurdson studdi, og var tillagan samþykkt.

Þsesu næst flutti Mr. O. Thornton ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin“ í Vancouver.

**Ársskýrsla þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin“ í Vancouver**

Þrír almennir skemmtifundir voru haldnir á árinu auk allmargra stjórnarnefndarfunda. Voru almennu fundirnir allvel sóttir og ýmis áhugamál rædd. Þá hafði deildin 5 skemmtisamkomur á árinu auk hinnar árlegu hlutaveltu. Þorrablót var haldið þann 26. febrúar í Alpen Hall. Var það allvel sótt. Þar var íslenzkur matur á borðum, og efnt hafði verið til stuttrar skemmtiskrár. Íslenzki karlakórinn söng undir stjórn Stefáns Sölvasonar allmarga íslenzka söngva.

Einnig las Nói Bergmann upp. Góð hljómsveit lék fyrir dansi, sem stóð til kl. 1 f. h.

Sumarmálasamkomu hélt „Ströndin" þann 21. apríl (sumardaginn fyrsta) í samkomusal íslenzku kirkjunnar. Var samkoman vel sótt og skemmtiskrá fjölbreytt. Aðalræðumaður var Sveinn Þórðarson frá Reykjavík, sem hér var vestra við nám og kennslu.

Skemmtisamkoma var haldin 18. maí (spilað á spil og myndir sýndar) í Continental Hall (Cor. Robson & Richard Strs.).

Fjölmenn samkoma var haldin 17. júní í samkomusal íslenzku kirkjunnar. Skemmtiskrá var mjög fjölbreytt. Þar stjórnaði Karlakórnum við ágætan orðstír ungur Íslendingur frá Íslandi, herra Árni Arinbjarnarson, hálfbróðir Grettis Björnssonar. Heldur Árni söngskóla í Reykjavík. Auk þess að vera ágætur söngstjóri er hann afbragðs slaghörpu- og fiðluleikari.

Þá hélt séra Jón Bjarman, prestur frá Lundar, Man. sýningu á vegum „Strandar" í samkomusal íslenzku kirkjunnar. Voru þar til sýnis litprentaðar myndir af mörgum fögrum málverkum eftir marga beztu málara Íslands. Var sýningin aðallega haldin til þess að kynna Vestur-Íslendingum íslenzka málaralist og fólki og gefinn kostur á því að panta myndir eftir þessum sýnishornum. Séra Jón og kona hans skýrðu myndirnar.

Þá var hin árlega hlutavelta „Strandar" haldin í nóvember við allgóða aðsókn.

Á aðalársfundi „Strandar", sem haldinn var 17. jan. 1961, voru eftirtalin kosin í stjórnarnefnd deildarinnar:

Forseti Mr. Snorri Gunnarssson, varaforseti Mr. Nói Bergmann, skrifari Mrs. Thordur Teitsson, varaskrifari Mr. Harold Eyford, fjármálaritari Mr. David Eggertsson, varafjármálaritari Mr. Oscar Howardson.

Í elliheimilisnefnd „Strandar" var kjörinn Mr. Bennie Brynjólfsson. Í Central Scand. Committee voru kjörnir dr. J. E. Fridleifsson og Mr. Stefán Eymundsson.

Yfirskoðunarmenn eru þeir Mr. Odinn Thornton og Mr. Hákon Kristjánsson.

Vancouver, B.C., 18. febrúar 1961

Virðingarfyllst,

**G. Stefánsson**
fyrrv. ritari.

Ritari lagði til, að skýrslan yrði viðtekin með þakklæti. Miss Guðbjörg Sigurdson studdi, og var tillagan samþykkt.

Séra Hjalti Guðmundsson flutti ársskýrslu þjóðræknisdeildarinnar „Báran" að Mountain, N.D.

**Skýrsla þjóðræknisdeildarinnar „Bárunnar" árið 1960**

Ársfundur „Báru" árið 1960 var haldinn í skólahúsinu að Mountain, N.D. 6. febrúar 1960. Forseti „Báru", Guðmundur J. Jónasson, setti fund og stjórnaði honum.

Embættismenn hlutu kosningu sem hér segir:

G. J. Jónasson forseti, S. A. Björnson varaforseti, H. B. Grímson skrifari, séra Hjalti Guðmundsson varaskrifari, Joseph Anderson féhirðir, H. J. Björnson varaféhirðir, O. G. Johnson fjármálaritari, Fred Halldórson varafjármálaritari.

Starf „Báru" árið 1960 var aðallega fólgið í því að taka á móti gestum frá Íslandi og undirbúa samkomur þeirra. Má þar nefna heimhókn séra Braga Friðrikssonar og myndasýningu hans í ágúst, sem var mjög vel sótt og mikill fengur að. Mættu slíkar heimsóknir gjarnan verða árlegir viðburðir, því að þær stuðla mjög að því að kynna Ísland og íslenzka menningu. Þá má nefna heimsókn Karlakórs Reykjavíkur til Mountain. Kórmenn stóðu við í nokkrar klukkustundir og voru miklir aufúsugestir. Þeir sungu nokkur lög við mikla hrifningu allra viðstaddra. Veitingar voru framreiddar fyrir kórmenn í samkomuhúsinu að Mountain svo og fyrir alla þá, sem komu til þess að sjá og heyra kórinn, en þeir voru mjög margir. Um allar veitingar sáu kvenfélögin í Mountain prestakallinu.

Það fer ekki hjá því, að íslenzkri tungu hrakar nú meðal Vestur-Íslendinga, og er sennilega ekkert meðal til að sporna við því. Það er því þeim mun gleðilegra að geta sagt þingheimi frá því, að í barnaskólanum að Mountain er kennd íslenzka í nokkrum bekkjum eina stund á viku. Við kennsluna eru notaðar kennslubækur í lestri frá Íslandi, t. d. Gagn og gaman, sem flestir Íslendingar þekkja. Börnin hafa sýnt mjög mikinn áhuga á íslenzkunni og því, sem íslenzkt er, og er það vissulega góðs viti. Kennari sá, sem að þessu stendur, er Mrs. Jack Thorfinson, Mountain.

Að lokum vil ég flytja þinginu beztu kveðjur og árnaðaróskir frá Guðmundi Jónassyni forseta „Báru".

Á tímabilinu milli aðalfunda 1960 og 1961 hafa fjórir félagsmenn „Báru" látizt: Hjörtur Hjaltalín, Mountain, John H. Johnson, Garðar, Steini Goodman, Milton og Björn Stefánsson, Hallson.

**Hjalti Guðmundsson**
vararitari.

Séra Hjalti lagði til, að skýrslan yrði viðtekin. Ritari studdi, og var tillagan samþykkt.

Frú Hólmfríður Daníelson talaði um útgáfu á bók S. B. Olson, Pioneer Sketches og vakti athygli á bókinni. Að því búnu söng séra Hjalti Guðmundsson nokkur lög þinggestum til mikillar ánægju.

Ritari, Haraldur Bessason, flutti skýrslu milliþinganefndar í minjasafnsmálinu.

**Skýrsla minjasafnsnefndar**

Í þessu máli hefir lítið áunnizt á árinu, og hefi ég vegna fjarlægðar ekki getað sinnt því eins og skyldi. Vil ég minna á ársskýrsluna frá í fyrra, þar sem ég fór fram á það, að deildirnar tækju málið að sér hver í sínu byggðarlagi. Eftir því sem ég bezt veit, hefir þessu ekki verið neinn gaumur gefinn af Þjóðræknisfélaginu, en einungis nefnd sett í málið, eins og áður hefir verið.

Á árinu meðtók nefndin Árbækur „Jóns Trausta“ í Blaine að gjöf, en tilkynning um þetta birtist í síðustu ársskýrslu nefndarinnar. Önnur gjöf, meðtekin frá Ellu Hall, var silfurbúinn upphlutur, og eru þessir munir nú í safninu.

Ég vil mælast til, að Þjóðræknisfélagið haldi þessu starfi áfram og reyni að finna nýjar leiðir til framkvæmda.

**Marja Björnson**

1371 Lee St.
White Rock, B.C.

Miss Guðbjörg Sigurdson skýrði frá því, að Miss Elín Hall hefði arfleitt Þjóðræknisfélagið að íslenzka þjóðbúningnum. Dr. Richard Beck þakkaði gjöfina og minntist Elínar Hall og trygglyndis hennar við Þjóðræknisfélagið. Frú Herdís Eiríksson tók þessu næst til máls og ræddi söfnunarstarfið. Dr. V. J. Eylands tók og til máls og kom fram með þá hugmynd, að leita hófanna við forráðamenn Betels, hvort ekki myndi unnt að fá minjasafninu stað þar í elliheimilinu.

Margir lýstu stuðningi sínum við tillögu dr. Valdimars. Frú Hólmfríður Daníelson gat þess, að í ráði væri, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins ræddi þetta mál við stjórn elliheimilisins. Var og væntanlegri stjórnarnefnd falið að athuga þetta mál nánar. Rætt var um það að skipa þriggja manna milliþinganefnd í málið eða þá nefnd, þar sem allar þjóðræknisdeildir ættu fulltrúa. Samkvæmt tillögu frá frú Herdísi Eiríksson var samþykkt, að forseta skyldi falið að skipa í minjasafnsnefnd einn fulltrúa fyrir hverja þjóðræknisdeild.

**Fimmti fundur**

var settur miðvikudagsmorguninn 22. febr. 1961, kl. 10.15 f. h.

Fundargerð síðasta fundar var lesin upp og samþykkt. Þá voru teknar fyrir skýrslur þingnefnda. Frú Herdís Eiríksson flutti nefndarálit í fræðslumálum.

**Nefndarálit í fræðslumálum**

1. Nefndin leggur til, að þingið þakki þeim einstaklingum, er á árinu hafa hjálpað börnum og unglingum við íslenzkunám. Einnig, að þeim deildum verði þakkað, sem haldið hafa uppi barnasöngflokkum innan sinna vébanda.

2. Að þingið láti ánægju sína í ljósi yfir þeim merkilegu fréttum, að íslenzka er nú ein kennslugrein við barnaskólann að Mountain, N.D.

3. Að þingið fagni því, að hafizt er handa um samningu íslenzks kennslukvers. Nefndin leggur til, að útdráttur úr slíku kveri verði fjölritaður og honum útbýtt meðal deilda, svo að þær geti notað hann, þar til hin fyrirhugaða bók er fyrir hendi.

4. Að deildirnar, hver í sinni byggð, stofni barnasöngflokka, og æskilegt væri það, ef deildirnar gætu enn einu sinni hjálpað börnum og unglingum til þess að læra íslenzka tungu.

5. Að milliþinganefnd sú, sem skipuð var á síðasta þingi, verði skipuð aftur í ár. Sú nefnd á að hafa það með höndum að hjálpa deildum, ef þær óska þess, við stofnun barnasöngflokka eða lestrarflokka.

6. Eftir rækilegar umræður leggur nefndin til, að útbreiðslumálnefnd og fræðslumálanefnd verði sameinaðar, þar sem þessar nefndir fjalla um sams konar málefni að mestu leyti.

**Herdís Eiríksson**
**Oddný Ásgeirsson**
**Sigrún Nordal**
**Odin Thornton**
**Rannveig Guðmundsson.**

Frú Herdís lagði til, að nefndarálitið yrði tekið fyrir lið fyrir lið. Var svo gert og allir liðir samþykktir, svo og hlaut nefndarálitið í heild stuðning og samþykki.

Séra Jón Bjarman flutti skýrslu þingnefndar í samvinnumálum við Ísland.

**Skýrsla þingnefndar í samvinnumálum við Ísland**

1. Þingið fagnar því, að góð samvinna hefir haldizt við Ísland á árinu. Þingið álítur, að slík samvinna sé nauðsynleg

tilveru Þjóðræknisfélagsins, og meðan slík samskipti haldast, telur þingið, að tilveru Þjóðræknisfélagsins sé borgið.

Sérstaklega gleður það þingið, hve vel tókst til með móttökur fyrir Karlakór Reykjavíkur á síðast liðnu hausti. Vill þingið þakka þeim mönnum, sem lögðu fram krafta sína og tíma til þess að gera heimsókn Karlakórsins eins ánægjulega og hún varð. Þingið fagnar því einnig, hversu vel tókst til með kynningu á eftirprentunum á íslenzkum listaverkum á árinu og þakkar stjórnarnefndinni fyrir undirbúning og fyrirgreiðslu þess máls.

2. Þingið þakkar Þjóðræknisfléagi Íslendinga í Reykjavík fyrir góða samvinnu á árinu. Þingið fagnar þeirri fregn, að von sé á segulbandsspólu frá því félagi með leikritinu „Hrólfur“ eftir Sigurð Pétursson. Þingið hvetur stjórnarnefndina til að sjá um, að deildum félagsins verði gefinn kostur á að hagnýta sér leikritið og geri tillögur um, hvernig því verði bezt komið í kring.

3. Þingið minnist með þakklæti heimsókna góðra gesta á árinu og álítur, að gagnkvæmar heimsóknir milli landanna stuðli að því að halda við sambandinu milli Íslendinga austan hafs og vestan.

4. Þingið fagnar því einlæglega, að þeir Birgir Thorlacius og Steindór Steindórsson skuli hafa tekið sæti í ritnefnd Lögbergs-Heimskringlu. Einnig er það fagnaðarefni, að Alþingi Íslendinga skuli hafa lagt fram kr. 100.000.00 til styrktar útgáfu blaðsins. Aukin samvinna um útgáfu íslenzks vikublað hér í Winnipeg milli Íslendinga austan hafs og vestan er mikilvægur þáttur í samvinnumálum Íslendinga og Vestur-Íslendinga.

5. Þingið gleðst yfir því, hve góðum árangri „Canada-Iceland Foundation“ og samsvarandi samtök á Íslandi hafa náð, eins og sjá má á útvegun og fyrirgreiðslu varðandi námsstyrki frá „Canada Council“. Á þeim þremur árum, sem þessir styrkir hafa verið veittir, hafa þrír íslenzkir náms- og menntamenn notið þeirra. Þingið álítur slík störf djúgan skerf til eflingar þjóðræknismálum báðum megin hafsins.

6. Þingið fagnar þeirri fregn, sem því hefir borizt um, að á Íslandi sé á döfinni útgáfa á afmælisriti til heiðurs fyrrverandi forseta Þjóðræknisfélagsins, dr. Valdimar J. Eylands. Kemur rit þetta út í sambandi við 60 ára afmæli hans, en dr. Valdimar verður sextugur 3. marz n.k. Þingið hvetur alla félagsmenn Þjóðræknisfélagsins til að styðja þetta mál og gerast áskrifendur að þessari væntanlegu bók.

7. Þingið lýsir þakklæti sínu til heimaþjóðarinnar fyrir þær hlýju viðtökur, sem hún veitti forseta Þjóðræknisfélagsins, dr. Richard Beck, á ferðum hans um Ísland á liðnu sumri. Einnig þakkar þingið forseta sínum fyrir þann mikla skerf, sem hann hefir lagt fram til aukinnar samvinnu milli Íslendinga og Vestur-Íslendinga, bæði með ferðum sínum og svo í ræðu og riti, hvar sem hann hefir því við komið.

**Jón Bjarman**
**Mrs. Kristín Thorsteinsson**
**Guðbjörg Sigurdson**
**Grettir Leo Johannson.**

Séra Jón lagði til, að nefndarálitið yrði tekið fyrir lið fyrir lið. Var svo gert þegar. Allir liðir hlutu samþykki svo og nefndarálitið í heild sinni.

Guðmann Levy flutti þessu næst nefndarálit þingnefndar í útgáfumálum.

**Nefndarálit útgáfumálanefndar**

1. Þingið ákveður að gefa út Tímaritið næsta ár í svipuðu formi og stærð og síðast liðið ár.

2. Þingið felur væntanlegri stjórnarnefnd að ráða ritsjtóra og auglýsingastjóra.

3. Þingið tekur undir með forseta að þakka öllum starfsmönnum Tímaritsins vel unnið starf á síðast liðnu ári.

**Guðmann Levy**
**Jónas Jónasson**
**Páll Stefánsson.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði viðtekið. Jónas Jónasson studdi, og var tillagan síðan samþykkt.

Dr. Richard Beck las símsenda kveðju til þingsins frá séra Braga Friðrikssyni á Íslandi, en hún hljóðaði þannig:

„Sendi Þjóðræknisfélaginu og deildum þess kærar þakkir fyrir móttökurnar í sumar og óska þinginu allra heilla.“

Bragi Friðriksson

Þinggestir fögnuðu kveðjunni með lófataki.

Féhirðir, Grettir L. Johannson flutti þessu næst nefndarálit fjármálanefndar.

**Nefndarálit fjármálanefndar**

Að athuguðum fjárhagsskýrslum frá s. l. ári beinir fjármálanefnd eftirfarandi tillögum til þingsins:

1. Að fjárhagsskýrslur, sem lagðar hafa verið fyrir þingið yfir fjárhag félagsins á s. l. ári, verði viðteknar.

2. Að því athuguðu, hve meðlimagjöld

þverra, hvetur þingið alla þá, sem tök hafa á, að gerast styrktarmeðlimir félagsins.

3. Þingið felur stjórnarnefndinni að greiða Lögbergi-Heimskringlu $500.00 framlag fyrir árið 1961.

4. Þingið felur framkvæmdanefndinni að skrásetja Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi sem meðlim í Skógræktarfélagi Íslands og greiða félagsgjaldið í kanadískum dollurum.

5. Þingið felur framkvæmdanefndinni að ganga endanlega frá ráðstöfun á myndastyttu Leifs Eiríkssonar, sem er hjá Mariner's Museum, Newport News, Virginia.

6. Að erindrekanum frá Vancouver, hr. Óðni Thornton, verði greiddir $50.00 upp í ferðakostnað.

7. Að öllum óafgreiddum tillögum þessa þings varðandi fjármál verði vísað til stjórnarnefndar félagsins til yfirvegunar og úrslita.

Á þjóðræknisþingi í Winnipeg, 22. febr. 1961.

**Hjálmur Thorsteinsson**
**Jóhann K. Johnson**
**Grettir Leo Johannson.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði tekið fyrir lið fyrir lið. Sú tillaga var studd af mörgum og síðan samþykkt. Allir liðir hlutu samþykki svo og nefndarálitið í heild.

Síðan var fundi frestað þangað til eftir hádegi.

## Sjötti fundur

hófst kl. 1.30 e. h., miðvikud. 22. febr. 1961. Lesin var fundargerð síðasta fundar og hún samþykkt.

Þá var kosið í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, og hlutu þessi kosningu: Forseti dr. Richard Beck, varaforseti séra Philip M. Pétursson, ritari próf. Haraldur Bessason, vararitari Walter J. Líndal dómari, féhirðir Grettir L. Johannson konsúll, varaféhirðir frú Hólmfríður Daníelson, fjármálaritari Guðmann Levy, varafjármálaritari Ólafur Hallsson, skjalavörður Jakob F. Kristjánsson. Endurskoðendur voru kjörnir þeir Davíð Björnsson og Jóhann Th. Beck.

Forseti, dr. Beck, þakkaði þingheimi það traust, er honum hefði verið sýnt með því að endurkjósa hann sem forseta Þjóðræknisfélagsins. Las forseti þessu næst símsenda kveðju til þingsins frá forseta Íslands, herra Ásgeiri Ásgeirssyni, en kveðjan hljóðar þannig:

Reykjavík, 22. febr. 1961.

Ég sendi þjóðræknisþinginu beztu heilla- og árnaðaróskir.

Ásgeir Ásgeirsson.

Þinggestir risu úr sætum í virðingarskyni við forseta Íslands og fögnuðu kveðjunni með lófataki.

Ólafur Hallsson flutti skýrslu útbreiðslumálanefndar.

### Nefndarálit útbreiðslumálanefndar

Nefndin leggur til:

1. Að dr. Richard Beck séu þökkuð mikil og góð störf fyrir Þjóðræknisfélagið vestan hafs og á Íslandi, bæði í ræðu og riti.

2. Að þingið þakki þeim, sem á árinu hafa kynnt Ísland og íslenzka menningu á einn eða annan hátt. Einnig hvetur þingið þjóðræknisdeildirnar til að halda þessu kynningarstarfi áfram eftir beztu getu.

3. Þingið lýsir ánægju sinni yfir hinum góðu heimsóknum Íslendinga á liðnu ári. Má þar sérstaklega þakka komu herra Sigurbjarnar Einarssonar biskups yfir Íslandi, heimsókn séra Braga Friðrikssonar, er hann kom með hina stórmerku myndasýningu. Þá var það ekki sízt mikið ánægjuefni að fá vestur hingað Karlakór Reykjavíkur, sem söng hér af frábærri snilld. Þingið álítur, að slíkar heimsóknir styrki meira en nokkuð annað bræðraböndin milli Íslendinga austan hafs og vestan og auki virðingu og áhuga unga fólksins á íslenzkum málum.

4. Þingið eggjar stjórnarnefndina á að halda áfram og auka heimsóknir til deildanna.

5. Þingið bendir stjórnarnefndinni á að reyna að koma í framkvæmd lið nr. 6 úr nefndarálitinu frá því í fyrra.

6. Þingið hvetur alla Íslendinga til að styrkja vestur-íslenzka vikublaðið Lögberg-Heimskringlu með því að kaupa það og senda því fréttir.

**Ólafur Hallsson**
**Hólmfríður Daníelson**
**Margrét Goodman**
**Louisa G. Gíslason**
**Hjalti Guðmundsson.**

Flutningsmaður lagði til, að nefndarálitið yrði tekið fyrir lið fyrir lið. Var sú tillaga studd og samþykkt. Hlutu allir liðir samþykki svo og nefndarálitið í heild.

Dr. Valdimar J. Eylands bar fram tillögu þess efnis, að ritara Þjóðræknisfélagsins yrði falið að senda dr. Finnboga Guðmundssyni kveðjur þjóðræknisþings og árnaðaróskir í tilefni af nýafstaðinni doktorsvörn hans við Háskóla Íslands.

Sú tillaga var studd af mörgum og samþykkt samhljóða.

Þessu næst var rætt allítarlega um það, hvort unnt myndi að stytta þingtímann á komandi árum. Fáir virtust því fylgjandi, en flestir á móti, svo að segja má, að þingstyttingarmálið félli um sjálft sig. Er þarflaust að rekja allar umræðurnar hér.

Walter J. Líndal dómari flutti sérstaka álitsgjörð frá allsherjarnefnd varðandi húsbyggingarmálið.

**Sérstök álitsgjörð allsherjarnefndar**

Nefndinni finnst, að tekið hafi verið spor í rétta átt á síðasta þjóðræknisþingi, þegar stjórnarnefndinni var falið að afla álitsgjörða frá hinum ýmsu deildum félagsins varðandi húsbyggingarmálið.

Nefndin hefir nákvæmlega íhugað álitsgjörðir frá fimm deildum. Eftir að hafa athugað málið frá öllum hliðum, leggur nefndin til, að málið verði, eins og sakir standa, tekið út af dagskrá, en um leið vill nefndin benda á, að þær breytingar gætu orðið bæði um fjárhag og skoðanir manna, sem gerðu það æskilegt, að málið yrði aftur tekið á dagskrá.

**W. J. Lindal**
**J. F. Kristjánsson**
**J. B. Johnson.**

Eftir nokkrar umræður var þessi sérstaka álitsgjörð samþykkt.

Forseti, dr. Richard Beck, flutti þingheimi kveðju frá Stefáni Eymundssyni í Vancouver, en kveðjan hljóðaði þannig:

„Fulltrúum og þingheimi á hinu fertugasta og öðru þjóðræknisþingi Íslendinga í Vesturheimi sendi ég hjartanlegar kveðjur og hamingjuóskir.

Lifi íslenzk tunga og þjóðrækni, á meðan gróa grös í mold og glóir nokkur stjarna."

Stefán Eymundsson.

Forseti flutti þessu næst þingheimi símsenda kveðju frá biskupinum yfir Íslandi, en kveðjan hljóðaði þannig:

Sendi þjóðræknisþingi blessunar- og árnaðaróskir.

Sigurbjörn Einarsson.

Þinggestir risu úr sætum og fögnuðu kveðjunni með lófataki.

Walter J. Líndal flutti þessu næst skýrslu allsherjarnefndar.

**Skýrsla allshejrarnefndar**

1. Nefndin leggur til, að ritara sé falið að þakka fyrir félagsins hönd á viðeigandi hátt allar kveðjur, sem félaginu bárust á hinu fertugasta og öðru ársþingi þess og þá sér í lagi Sigurði Sigurgeirssyni forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi og séra Braga Friðrikssyni.

2. Nefndin leggur til, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins verði falið að ganga frá fundargjörningum, sem ólokið er og öðrum störfum, sem henni hefir verið falið að vinna.

**W. J. Lindal**
**J. F. Kristjánsson**
**J. B. Johnson.**

Flutningsmaður lagði til, að skýrslan yrði samþykkt. Miss Hlaðgerður Kristjánsson studdi, og var tillagan samþykkt.

Á lokafundi Þjóðræknisfélagsins, sem haldinn var í kirkju Sambandssafnaðar að kvöldi þriðja þingdags, var frú Kristín Thorsteinsson, forseti þjóðræknisdeildarinnar að Gimli, kjörin heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins. Forseti afhenti frúnni skrautritað skjal í þessu tilefni.

Hinu fertugasta og öðru þjóðræknisþingi var slitið af forseta Þjóðræknisfélagsins, dr. Richard Beck, á lokasamkomu Þjóðræknisfélagsins í kirkju Sambandssafnaðar við Banningstræti miðvikudagskvöldið 22. febr. 1961.

**Richard Beck** forseti
**Haraldur Bessason** ritari.

Mrs. Kristinn Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Page
Mrs. Dóra Roswick
Mr. Pétur Thordarson
Rev. G. P. Johnson
Mrs. G. P. Johnson
Miss Elín Eggertz Stefánsson
Mr. Jón Sigurðsson
Mr. Steve Scheving
Mrs. Steve Scheving
Mrs. Veiga Olson

**Deildin „Aldan", Blaine, Washington**

Elízabet Arngrímson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Dr. Sveinn E. Björnsson
Marja Björnsson
Gísli Benedictson
Thorbjörg R. Couch
Rósa Casper
Bertha Danielson
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Gísli Guðjónson
Hólmfríður Guðjónson
Séra Guðm. J. Johnson
Margrét Johnson
Rúna Johnson
Solveig Jóhannson
Thorbjörg Johnson
Séra Albert E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Líndal
Dr. H. S. Sigmar
Margrét Sigmar
Einar Símonarson
Begga Sölvason
Helgi Steinberg
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Belle Straumfjörð
Helga Guðmundson
Sólveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð

Embættismenn:
Forseti:
Sr. Albert E. Kristjánsson
Varaforseti:
Anna Kristjánsson
Skrifari:
Dagbjört Vopnfjörð
Varaskrifari:
Herdís Stephanson
Féhirðir og skjalavörður:
Jóhann J. Straumfjörð
Varaféhirðir:
Jón Laxdal

**„Báran", Mountain, N. Dak.**

Heiðursmeðlimir:
Dr. Richard Beck
Mr. H. B. Grimson
Mr. P. B. Olafson

Meðlimir:

Séra Hjalti Guðmundsson
H. M. Jónasson
Mrs. Gardar Johnson
Helgi Laxdal
Arthur Fletcher
G. A. Guðmundson
Albert Bjarnason
Óli G. Johnson
Alvin Melsted
Fred G. Johnson
Mrs. John H. Johnson
H. S. Walter
Fred Olafson
Hannes Björnson
Stefán Indriðason
Chris S. Gudmundson
Dale Goodman
A. J. Byron
S. B. Sigurdson
G. Gudmundson
W. M. K. Mýrdal
Steve Thordarson
G. J. Jónasson
Chris Bjarnason
Magnús B. Byron
Mrs. Ingibjörg Jónasson
J. C. Hallgrímsson
K. S. Johnson
H. B. Thorfinnsson
John H. Axdal
Matt. Bjarnason
W. M. Sigurdson
L. G. Bannson
Mrs. Kristbjörg Kristjánsson
Sigm. Gudmundson
P. B. Olafson
Helgi Reykdal
S. F. Bjarnason
Joseph Anderson
Einar J. Einarson
John J. Einarson
O. G. Johnson
O. B. Thorsteinson
A. E. Pálsson
I. V. Guðjónsson
Solveig Stevenson
Kenneth Indridason
John W. Magnússon
Fred Halldórsson
W. B. Johnson
E. T. Kristjánsson
A. M. Ásgrímsson
Mrs. F. M. Einarson
H. Ólafsson
H. B. Grimson
Mrs. Ole Andrews
Bill J. Thorsteinson
Leo Melsted
Leo Laxdal
John Snidal
K. Kristjánson
John J. Hillman
Gestur J. Gestsson
Helgi Finnssson
V. G. Gudmundson
Victor Sturlaugsson
Mundi Goodman

**„Esjan", Árborg, Man.**

Jónína Alexander
Sigurjón Karvelsson
Steini Johnson
G. M. Björnsson
Ragnar Karvelsson
Páll Th. Stefánsson
Bergur Vigfússon
Pálína Hornfjörð
Siggi Pálsson
Guðni Sigvaldason
Aðalborg Sigvaldason
Betrice Martin
Siggi Sigvaldason
Sigríður Kristjánsson
Jóhannes Halldórsson
Kristjón Finnsson
Ragnar Guðmundsson
Friðrik Finnsson
Brynhildur Jóhannesson
Haraldur Sigurðsson
Sigurður Vopnford
Valdimar Jóhannesson
Andrés Fjelsted
Rikka Magnússon
Halldór Austman
G. Th. Stefánsson
Herdís Eiríkson
Jón Gunnarsson
Guðrún Magnússon
Eiríkur Bjarnason
Elli Guðmundsson
Björgvin Hólm
Þorgrímur Pálsson
Guðrún Jónasson
J. K. Jónsson
Helgi Jakobsson
Sveinn Eyjólfsson
Ingibjörg Sigvaldason
Valdimar Pálsson
Jón Pálsson
Óli Gíslason
Kristján Albertsson
Gunnar Einarsson
Jón Þórðarson
Wilfred Finnson
Jóhann M. Einarsson
Eiríkur Einarsson

Gunnlaugur Oddson
Unvald Jónasson
Kristjón Sigurðsson
Jón Þorsteinsson
Gestur Vídal
Edward Gíslason
Guðjón Daníelsson
Þórarinn Gíslason, heiðursfélagi
Thorbjörg Sigurdson
Margrét Lífman
Bjarni Goodman
Valgerður Nordal
K. L. Skúlason
Kristján Johnson
J. B. Jóhannsson
Elín Einarsson
Olga Anderson
K. N. S. Friðfinnson
Þorsteinn Þorsteinsson
Helgi Johnson
W. S. Eyjólfsson
Kristveig Jóhannesson
Björn Jónasson
Lóa Guðmundsson
Kristinn Kristinson
Indíana Kristinson
Laugi Johnson
Th. G. Björnsson
Skúli S. Skúlason
Óli Ólafsson
Oddur Ólafsson

Þórður Anderson
Björn Björnsson
Guðríður Gíslason
S. V. Sigurðsson
Emil Björnsson
Sam Thorkelsson
Margrét Þorsteinsson
S. H. Jóhannesson
Þórdís Thompson
Kristján Thorarinsson
G. J. Thompson
Einar Johnson
T. Böðvarsson
Sigurlaug Eyjólfsson
Valgerður Sigurðsson
Áslaug Sigfússon
Stefán Eyjólfsson
Jón Laxdal
Jóhann G. Bjarnason
Axel Eyjólfsson
Jón Eiríksson
Marino Briem
S. S. Johnson
S. I. Sigvaldason
Jakob Björnsson
Lára Sigvaldason
S. A. Sigurdson
Gunnar Sæmundsson
Emily Vigfússon
Sigmar Sigvaldason
Jónas Nordal
Andrea Johnson

Óli Pétursson
Guðmundur Sigvaldason
Sigurður Sigurðsson
Sigfús Hildibrandsson
Helgi Helgason
Helgi Sigurðson
Jón Baldvinson
Páll L. Pálsson
Jódís Brandsson
Franklín Johnson
Margrét Finnsson
Þórarinn Erlendsson
G. J. Magnússon
S. O. Oddleifsson
Björn Árnason
Valdi Johnson
J. K. B. Jónsson
Brandur Finnson

**„Gimli", Manitoba**

Mrs. Kristín Thorsteinsson, forseti
Mr. J. B. Johnson, varaforseti
Mr. Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, varaskrifari
Mr. W. J. Árnason, gjaldkeri

Mrs. W. J. Árnason, varagjaldkeri
Mr. Baldur Peterson, fjármálaritari
Mr. Hjálmur V. Thorsteinsson, varafjármálaritari
Mrs. Helgi Stevens, skjalavörður

Meðlimaskrá:
Guðjón W. Árnason
Mrs. G. M. Árnason
Ted K. Árnason
Miss Sæunn Bjarnason
Helgi Benediktsson
Harold Bjarnason
Mrs. Harold Bjarnason
Óli Bjarnason
G. B. Bjarnason
Sveinn Björnsson
Mrs. Helga Demedash
Pálmi F. Einarsson
Barney Egilson
Mrs. Barney Egilson
Harry Einarsson
Mrs. Harry Einarsson
Einar S. Einarsson
Mrs. Einar S. Einarsson
Ingi Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
August Elíasson
Mrs. August Elíasson
S. E. Eyólfsson
Mrs. S. E. Eyólfsson
Mrs. G. Eyólfsson
Mrs. Sigrún Gíslason
Kjartan Geirholm
Mrs. Kjartan Geirholm
Adolf Holm
Mrs. Adolf Holm
Miss M. Halldórsson
Miss S. Hjartarson
Dr. A. B. Ingimundson
Mrs. Guðný Ísfeld
J. V. Johnson
Mrs. John J. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. Pálmi Jóhannson
Óli P. Josephson
Mrs. Óli P. Josephson
Dr. Jónas G. Johnson
Mrs. Elín Kristjánsson
Ólafur O. N. Kardal
Mrs. O. N. Kardal
Ted Kristjánsson
Kristjáns N. Kárason
Lestrarfélagið „Gimli"
F. O. Lyngdal
G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
Frank Olson
Mrs. Baldur Peterson
P. S. Pálsson
Guðmundur Peterson
Dóri Peterson
Mrs. Dóri Peterson
Mrs. Lauga Peterson
Mrs. Emma Von Renesse
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Margrét Sigurdsson
Björn Sigurdsson
Sam Sigurdsson
Mrs. Elín Sigurdsson
Miss Guðrún Sigurdsson
Mrs. Ingibjörg Sveinsson
S. Th. Sveinson
Helgi Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. L. Stevens
Valdimar Stefánsson
Mrs. Valdimar Stefánsson
Eric Stefánsson, M.P.
Mrs. Eric Stefánsson
Mrs. F. E. Scribner
Óli Thorsteinsson
Mrs. Óli Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. H. R. Tergesen
Miss J. V. Thordarson
Björgvin Thordarson
Miss Sylvia May Kardal

**Deildin „Lundar", Lundar, Man.**

Embættismenn 1962:
Forseti
K. Byron
Varaforseti
Mrs. B. Björnson
Skrifari
G. S. Gíslason
Féhirðir
A. Jörundson
Varaféhirðir
J. A. Björnson
Yfirskoðunarmaður
Mrs. R. Guðmundson
Bókvörður
Mrs. A. Eyolfson

Meðlimir:
Ágúst Eyolfson
Mrs. Ágúst Eyolfson

Ási Freeman
Mrs. Ási Freeman
Kári Byron
Mrs. Kári Byron
Dr. N. Hjálmarson
Mrs. N. Hjálmarson
Skúli Sigfússon
Mrs. Skúli Sigfússon
Vigfús Guttormsson
Mrs. Vigfús Guttormsson
Leo Danielson
Mrs. Leo Danielson
Lárus Johnson
Mrs. Lárus Johnson
Ólafur Hallson
Mrs. Ólafur Hallson
G. S. Gíslason
J. A. Howardson
B. Björnson
Mrs. B. Björnson
Mrs. M. Björnson
Mrs. R. Magnússon
Mrs. Ásta Sigurðson
Mrs. R. Gudmundson
Mrs. M. Lindal
Mrs. K. Pálsson
Mrs. I. Rafnkelson
J. A. Björnson
Ásgeir Jörundson
Albert Thorgilson
H. Hjartarson
Dr. G. Paulson
Mrs. S. Johnson
Jón Thorgilson
Mrs. Margrét Johnson
M. Halldórsson
Th. Johnson
Mrs. M. Hofteig
Séra Jón Bjarman
Mrs. Jón Bjarman
O. Johnson
E. Hallson
O. H. Oddson

**Deildin „Ísland", Morden, Man.**

Stefán G. Einarson
Oscar Gillis
Ragnar Gillis
Mrs. Louisa Gíslason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Jóhann P. Tómasson
Thomas Thomasson
Mrs. K. I. Thomasson
Jónathan Thomasson

**„Ströndin", Vancouver, B.C.**

Stjórnarnefnd 1962:
Forseti
Snorri Gunnarson
Varaforseti
M. K. Sigurðson
Skrifari
Olgeir Gunnlaugson
Varaskrifari
Mrs. Mraja Björnson
Fjármálaritari
David Eggertson
Varafjármálaritari
Óskar Howardson
Skjalavörður:
Óðinn Thornton
Elliheimilisnefnd
B. Brynjólfson
Central Scandinavian Comm.
Dr. J. Friðleifson
Chris Eyford
Bókanefnd
Sig. Stefánson
G. Hólm
Mrs. Matta Rrederickson
Endurskoðendur
Albert Wathne
Dr. J. Friðleifson

Meðlimir:
Óli Anderson
E. Árnason
Thorsteinn Bergman
S. E. Björnson
Mrs. Marja Björnson
Mrs. S. Brynjólfson
B. Brynjólfson
Mrs. A. Björnson
Bert J. Björnson
B. Brynjólfsson
Séra E. S. Brynjólfsson
Frú E. S. Brynjólfsson
H. Eyford
D. Eggertson
Mrs. D. Eggertson
Inga Egilsson
E. Elíasson
Mrs. G. Erickson
Mrs. Rúna Erickson
S. Eymundsson
Mrs. S. Eymundsson
Mrs. Carl Finnbogason
Mrs. G. Fridrikson
G. Fridrikson
Dr. E. J. Friðleifson
Matthildur Fredrickson
Miss Bára Guðlaugsson
Miss Rósa Guðmundsson
T. H. Gunnarson
Mrs. S. Gunnarson
G. Gíslason
Mrs. G. J. Guðmundson
J. Guðmundson
Olgeir Gunnlaugson
Kristín Gunnlaugson
Miss Rósa Guðmundsson
O. Howardson
Mrs. O. Howardson
Mrs. E. F. Hall
Geir Jón Helgason
Mrs. Geir Jón Helgason
G. Holm
Mrs. G. Holm
Th. Ísdal
C. H. Ísfjörð
Mrs. Thorir Jacobson
Thorir Jacobson
Óli Jónsson
Sigurður Johnson
Mrs. G. Jacobson
G. Jacobson
Victor Jakobson
Bud Jakobson
Mrs. Guðlaug Jóhannesson
E. Johnson

Mrs. E. Johnson
Miss Helga Johnson
H. B. Johnson
Mrs. H. B. Johnson
J. S. Johnson
Mrs. Sig. Johnson
H. Kristjánsson
Kr. Ólafsson
Mrs. Sigr. Olsen
Mrs. Sigríður Reykjalín
S. Peterson
B. Sigurdson
S. Stefánson
Gunnbjörn Stefánsson
John Sigurdson
Mrs. L. E. Summers
M. K. Sigurdson
Mrs. M. K. Sigurdson
S. Sigurdson
Mrs. S. Sigurdson
Lóa Skúlason
Jóhann Sigmundsson
Oscar Sveinsson
O. Thornton
Mrs. S. Torfason
L. H. Thorláksson
Mrs. F. Thorsteinson

# PATRONIZE OUR ADVERTISERS —

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)




*you'll find*

*lovely things*

*in our Gift Shop . . .*

Beautiful things to take home with you, or very special gifts for very special occasions—you'll find them all in this delightful shop, conveniently located on our Sixth Floor. We add an extra touch of glamour, too, with our gleaming golden gift wrap, at no extra charge.

*Gift Shop,*
*Sixth Floor*

*at* EATON'S